Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist !



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

21.Tbl. 5.nóv.- 19.nóv.1979 Sími 28962 Verð kr. 200.



Takið þátt í kosninga starfi EIK(m-l) 2


X A B D G táknar kjararán

# Kjósum engan kaupránsflokkanna fjögurra

Einingarsamtök kommúnista (m-l) taka að þessu sinni þátt í alþingiskosningum með því að stuðla að því að kjósendur skili auðum atkvæðaseðli.


2



Skipasala til S-Afríku „TVÖFALT SIÐGÆÐI" 5

Siglufjörður 3,6 milljónir vantar 5

Fjársvik við skipakaup 5





"Þetta var leiðinleg ráðstefna. Menn höguðu sér eins og kötturinn við heita grautinn og enginn tók af skarið", sagði einn viðmælenda undirritaðs. Hann hafði setið nýafstaðna kjaramálastefnu ASÍ.

Ráðstefnan mótaði meginkröfu og helstu starfsaðferðir ASÍ fyrir næstu samninga.

Meginkrafan.

Sett var fram krafa um "samningana í gildi", sama kaupmátt og eftir samningana ´77. því var hins vegar ekki slegið föstu, hvað þessi krafa þýddi BSRB hefur hins vegar sett fram þessa sömu kröfu og telur hana þýða um 15% kaupmáttaraukningu. Þessi


3


# Verðbólgan og verkafólkið

Atvinnupólitíkusarnir, einkum þeir sem eru styrktir af ríkisfé, eru meira en gjarnir á að líta á verðbólguna sem illviðráðanlega víxlhækkun kaupgjalds og verðlags. Svo segja þeir með festu og þunga í hverju áhersluatkvæði: Öll þjóðin verður að fórna einhverju til að ná verðbólgunni niður. Á mæltu máli heitir það stórfelld kjaraskerðing fyrir launafólkið í landinu

Um þetta eru allir þingflokkarnir sammála. Það er skemmst að minnast sjónvarpsþáttar þar sem Einar Karl á Þjóðviljanum lýsti því yfir að hann sæi ekki neina leið til að koma verðbólgunni niður á næstunni nema með stórfelldri kjaraskerðingu.




## Borgaralegir hagfræðingar

En hagfræðingar þeir sem nú vaða uppi líta ekki á verðbólguna þessum augum. Þeir skilgreina hana sem "varanlega, almenna verðhækkun". Síðan sýna þeir fram á með tölfræðilegum gögnum að hún stafi af auknum launakostnaði fyrirtækjanna.

## Víst fylgja launin verðbólgunni

Það þarf aðeins meðalskussa til að sjá að auðvitað er ákveðin fylgni milli launahækkana og verðhækkana. Verkalýðshreyfingin hefur fengið því framgengt með kjarabaráttu að fá greiddar vísitölu- eða verðhækkanabætur á laun til þess að verja sig kaupmáttarrýrnun og saga eftirstríðsáranna sýnir okkur að velflestar grunnkaupshækkanir hafa verið varnarhækkanir, til þess gerðar að vinna til baka sem tekið hefur verið til baka af atvinnurekendum með verðhækkunum, vísitöluskerðingum o.s. frv..

En það þarf borgaralegan hagfræðing eða atvinnupólitíkus til að fullyrða að


2



Stjórnmálaástandið 7




Útgefandi: EIK(m-l). Pósthólf 5186 Reykjavík.
Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

# Kjósum engan kaupránsflokkanna fjögurra

Meirihlutasamþykkt var gerð í samtökunum þess efnis, að EIK(m-l) tækju ekki þátt í framboði til Alþingis nú í desemberkosningum. Var höfuðástæðan talin of naumur tími til undirbúnings framboðs svo vel færi. Opin ráðstefna EIK(m-l), Fylkingarinnar og Kommúnistaflokksins 28. okt staðfesti meirihlutaálitið. EIK(m-l) telja engan valkost vera fyrir verkafólk og vinnandi alþýðu í komandi kosningum meðal framboðsaðila.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) ákveður því eftirfarandi kjörorð samtakanna fyrir komandi alþingiskosningar:

1. **Kjósum engan kaupránsflokkanna fjögurra**
2. **Berjumst fjöldabaráttu fyrir alþýðuhag**
3. **Mótmælum þingflokkunum — skilum auðu**
4. **Stofnum nýjan verkalýðsflokk**

EIK(m-l) óska eftir samvinnu við einstaklinga, Kommúnistaflokk Íslands/ML og önnur samtök í kosningabaráttunni og öllu starfi fyrir og eftir kosningar, sem miðar að myndun samfylkingar í kjarabaráttunum framundan.

F.h. EIK(m-l)
Ari T. Guðmundsson,
formaður.

# Ályktun frá EIK(m-l)

## Kosningar koma EIK(m-l) í opna skjöldu

EIK(m-l) gagnrýna sjálf sig fyrir að hafa ekki undanfarið sinnt stjórnmálaástandinu í landinu þannig, að samtökin hafi orðið íslenskri alþýðu að verulegu gagni.

Einangrunnarstefna hefur ríkt í samtökunum. Samfara leiðréttingum á þeim mistökum hefur lítill árangur náðst við að koma til móts við þörf alþýðunnar á nýjum valkosti í stéttabaráttunni.

Ýmsar hugmyndir og starfsaðferðir EIK(m-l) hafa gert samtökin að einangruðum hópi með önnur áhugamál og verkefni en eru efst á baugi meðal alþýðunnar - fremur en að ábyrgum stjórnmálasamtökum er taka frumkvæðið í stéttabaráttunni.

Þannig bjuggu samtökin sig ekki undir stjórnarslit og fyrirvaralitlar kosningar þrátt fyrir ýmsa fyrirboða um slíkt á þessu ári. Samtökin urðu að móta þátttöku sína í kosningabaráttunni á of skömmum tíma.

Við núverandi aðstæður skiftir ekki meginmáli, hvernig alþýða manna ver atkvæðisrétti sínum. Aðalatriðið er að mótmæla framferði þingflokkanna fjögurra og taka höndum saman um að verja lýðréttindi og lífskjör gegn harðnandi árásum peningavaldsins með aðstoð þessara flokka. Markmiðin ættu að vera þessi:

1. **Vinnum upp kaupránið — fullar verðbætur**
2. **Engar uppsagnir — næga atvinnu**
3. **Berjumst gegn niðurskurði á félagslegri þjónustu**
4. **Verjum verkfalls- og samningaréttinn — lýðræðislega samninga**

EIK(m-l) munu leggja höfuðáherslu á myndun samfylkingar í þessu skyni bæði fyrir kosningar í desember og ekki síst eftir þær. Kosningaþáttaka samtakanna miðast við þetta verkefni. Í stað framboðs ákveða samtökin að hvetja kjósendur til að skila auðum atkvæðaseðli.

EIK(m-l) eru reiðubúin til þess að vinna með öllum sem styðja vilja fyrrgreind málefni.

18. og 29. okt. 1979.
Reykjavíkurdeild EIK(m-l)
Framkvæmdanefnd miðstjórnar
EIK(m-l)



# Takið þátt í kosningastarfi EIK(m-l)

Eins og fram kemur í fréttatilkynningu hafa EIK(m-l) ákveðið að taka ekki þátt í framboði. Samtökin hvetja fólk til þess að skila auðu. Við inntum fulltrúa í Deildarstjórn samtakanna í Reykjavík eftir því í hverju starf deildarinnar verði fólgið í kosningabaráttunni.

Vbl: Hvers vegna hvetjið þið fólk til að skila auðu?

Fulltrúi DS: Við hvetjum fólk til að skila auðu vegna þess að,að okkar mati skiptir engu máli við hvern þingflokkanna fólk krossar 2. og 3. des. Þetta eru allt borgaralegir flokkar, sem einungis bera hag borgarastéttarinnar fyrir brjósti. Eina leiðin til að ná fram einhverjum baráttumálum er barátta fólks sjálfs, en ekki stuðningur við einhvern kaupránsflokkanna.

Vbl: Hvernig hyggjast samtökin taka þátt í kosninga baráttunni hér í Reykjavík?

Fulltrúi DS: Það verða stofnaðir tveir starfshópar, sem verða opnir bæði félögum og stuðningsmönnum. Annar hópurinn mun einkum sjá um afhjúpun á stefnu og starfi flokkanna og mótum á raunhæfum valkosti fyrir alþýðufólk. Ætlunin er að gera þetta með því að fara yfir kosningastefnuskrár flokkanna, leggja fyrir þá spurningar, ýmist á kosningafundum, í opnum bréfum eða með því að hafa samband við kosningaskrifstofur þeirra. Árangurinn yrði svo birtur í Vbl. eða öðrum blöðum. Hinn hópurinn mun einkum sjá um samningu og dreifingu dreifirita. Í þessum dreifiritum er ætlunin að taka fyrir ákveðin afmörkuð mál en ekki flengjast yfir allt.

Vbl: Hvernig er hægt að komast í samband við þessa hópa?

Fulltrúi DS: Það er hægt að skrá sig í hópana í Októberbúðinni. Ég vil eindregið hvetja fólk til að skrá sig, þó svo það hafi takmarkaðan tíma, því við þörnumst allra sem eitthvað geta lagt af mörkum.

## Þökkum stuðning

EIK(m-l) leituðu í tilraunaskyni til nokkurra áskrifenda Verkalýðsblaðsins og báðu um fjárstuðning. Af 20 mönnum svöruðu 5 og bárust samtökunum alls 50 þús. kr., þar af kr. 30.000 frá gamalli kempu.

Við kunnum velunnurum samtakanna bestu þakkir fyrir framlögin. Öðrum stuðningsmönnum sem geta látið upphæð af hendi rakna til okkar - bendum við enn á gíró 57070-2 12200-9 auk Októmberbúðarinnar á horni Grettisgötu og Frakkastígs í Reykjavík.

Baráttan framundan verður dýr - ekki aðeins vinnandi fólki, heldur og Eik (m-l).

Fram.kv.nefnd miðstj.

## Til fundar samstarfs nefndar starfsfólks á sjúkrahúsum

24.október 1979

Til fundar samstarfsnefndar starfsfólks á sjúkrahúsum.

Við teljum mikilvægt að stjórnmálaflokkar lýsi yfir skilyrðislausum stuðningi við allt starf og baráttu sem miðar að því að halda heilbrigðisþjónustunni í horfinu. Einingarsamtök kommúista (m-l) senda fundarmönnum stuðningskveðjur og líta svo á að hér sé um mikilvægan hlekk að ræða í andófinu gegn alls konar tilraunum ríkisvaldsins til að skerða félagsþjónustu á landinu.

Samtökin óska ykkur góðs gengis.

F.h. Eik (m-l)
Ari T.Guðmundsson.

Eik(m-l)
Pósthólf 5186
105 Rvk - Simi 29212



## Til landsráðstefnu herstöðvaandstæðinga

Einingarsamtök kommúnista (m-l) senda herstöðvaandstæðingum baráttu og hvatningarhveðjur.

Við vonumst eftir að sjá Samtök herstöðvaandstæðinga verða að öflugum liðsmannasamtökum gegn risaveldunum og bandalögum þeirra - og munum leggja okkar skref til alls starfs herstöðvaandstæðinga.

F.h.miðstjórnar Eik(m-l)
Ari T.Guðmundsson.

## Verðbólgan og ...

frh. af forsíðu.

þessi afleiðing verðbólgunnar sé orsök hennar.

### Sannleikurinn í málinu

Það er ekki ætlunin í þessari grein að verma lesendur á talnaröðum og hagskýrslum. Það er nóg að benda á nokkur atriði sem ráða meiru verðbólguþróun en launahækkanir.

Í fyrsta lagi má minna á erlendar verðhækkanir. Þær hafa verið undanfarin ár á bilinu 7 - 15%.

Í öðru lagi má minna á gengissig og gengislækkanir Fjögur áhrifamestu fyrirtæki í landinu, Sölumiðstöðin, Sambandið, Flugleiðir og Eimskip fá stærsta hluta tekna sinna í erlendum gjaldeyri. Gengislækkun eða "hratt gengissig" hefur beinlínis í för með sér aukagróða fyrir þessi fyrirtæki, þau fá fleiri krónur í sinn hlut áður en innlendur kostnaður hefur lagað sig að gengisbreytingunni. Við vitum öll að SH og SÍS (fiskiðnaðurinn) hafa haft mest að segja um gengislækkanir á krónunni. Á undanförnum árum hefur meðalgengislækkun verið á bilinu 10-30%.

Í þriðja lagi má minna á hversu útflutningur landsmanna er einhæfur og mikið á einni (raunar tveim) hendi. Það leiðir til þess að allar sveiflur á innstreymi gjaldeyristekna verða áhrifameiri og auka eftirspurn og valda þannig verðbólgu. Á þessu ári hefur peningamagn aukist um u.þ.b. 60% en um 14% á öllu síðasta ári. Munurinn mun liggja að verulegu leyti í þessum sveiflum.

Í fjórða lagi má minna á að hávaxtastefnan hefur óhjákvæmilega í för með sér aukið peningamagn (seðlaprentun) og þar með aukna verðbólgu. Á fáum árum hafa hæstu vextir farið frá u.þ.b. 15% upp undir 40% - það gildir þó aðallega um okkur smælingjana. Einokunarfyrirtækin og margar atvinnugreinar fá ennþá lán sem bera minna en 15% vexti.

Í fimmta lagi má minna á erlendar lántökur. Helstu lántakendur eru ríkið, Landsvirkjun og stóru einokunarfyrirtækin. Öllum erlendum lánum þarf að umbreyta í íslenskar krónur (seðlaprentun enn). Á undanförnum árum hafa netto lántökur (mínus það sem borgað er til baka) verið á bilinu 5 - 10% af nettó þjóðartekjum.

### Hagsmunir auðherranna

Atvinnupólitíkusar, hagfræðingarnir og auðherrarnir predika gegn launahækkunum ekki fyrst og fremst vegna þess að þeim sé illa við verðbólguna. Hún flytur jú peningana úr vösum þeirra fátæku í vasa þeirra ríkari. Þeir vilja lækka launin einungis í þeim tilgangi að fá meiri gróða, verða enn ríkari en áður á kostnað vinnulýðsins.

### Hagsmunir verkafólksins

Við verðbólgunni á verkalýðurinn í landinu í raun ekki nema eitt svar. Fullar og óskertar vísitölubætur og reglulegar grunnkaupshækkanir.

Að predika "íslenska atvinnustefnu" við núverandi aðstæður sem lausn á verðbólgunni eins og Alþýðubandalagið gerir er í raun þjónkun við auðvaldið því það slær vopnin úr höndum verkalýðsins og beinir ekki baráttunni þangað sem höfuðátökin fara fram.

-s

# Horfur í kjaramálum

frh. af forsíðu.

krafa, "samningana í gildi" á mikinn hljómgrunn meðal fólks og hún á allan stuðning skilinn. Stuðningur við hana þýðir hins vegar ekki, að við eigum að hafna öðrum kröfum.

Í sambandi við þessa meginkröfu, er fróðlegt að skoða samningagerðina 1977. Þá var sett fram krafan, sama kaupmátt og '74. Niðurstaða samninganna varð hins vegar raunverulega langt frá upphaflegum yfirlýsingum. Hvað gerist nú? Reynslan af viðbrögðum ASÍ við árásum VSÍ á farmenn og Graffiska gefur ekki góðar vonir.

Vísitalan.

Ekkert var endanlega ákveðið í sambandi við vísitölumálin. Verkamannasambandsþingið fyrr í haust setti hins vegar fram skýra stefnu. Í henni felst að fullar vísitölubætur verði greiddar á laun að miðlungstekjum, en föst krónutala þar fyrir ofan - á að sögn að þjóna launajöfnun.

Mitt mat er hins vegar, að með þessu eigi í reynd að breyta hlutverki vísitölunnar. Hún á samkvæmt tillögum VMSÍ að þjóna því hlutverki einnig að breyta innbyrðis launahlutföllum á milli hinna ýmsu hópa og minnka um leið kaupmátt hárra launanna, kaupmátt, sem samið er um í samningum. Mér er spurn, hvaða hópar í ASÍ eiga skilið þessa meðferð?

Mitt mat er, að hlutverk vísitölunnar eigi að vera að viðhalda kaupmætti launa, en ekki að breyta innbyrðis hlutföllum og lækka laun hjá ákveðnum hópum. Á ráðstefnunni létu nokkrir fulltrúar í ljós óánægju með þessa notkun á vísitölunni.

Umboð til samninga.

Ekkert þeirra félaga eða samband, sem sátu ASÍ ráðstefnuna, hafa heimild til að gefa heildarsamninganefnd umboð. Og sennilega hafa fáir félagsfundir verið haldnir til að fá fram óskir og vilja óbreyttra félagsmanna fyrir næstu samningsgerð.

Það er nánast orðin hefð, að samninganefnd ASÍ semji fyrir flest af ekki öll aðildarfélögin. Að fá umboðið er meira formsatriði.

Í stéttarfélagi undirritaðs koma fram óánægja með að kröfugerð skyldi ekki undirbúin í félaginu fyrir ráðstefnuna. Formaður félagsins hafnaði þessu, kvað best að bíða og sjá, fulltrúarnir yrðu að hafa óbundnar hendur á ráðstefnunni.

Hvernig á að undirbúa kröfugerð fyrir samninga?

Til að einhver slagkraftur fylgi kröfum stéttarfélags, er nauðsynlegt að kröfurnar séu sameign sem allra flestra félagsmanna og að þeir fái tækifæri til að móta þær.

Það verður best gert á þann hátt að fá fram hugmyndir félagsmanna á fundum og fara til félagsmanna á vinnustöðum og spyrja: Hvaða mál eru mikilvægust fyrir ykkur í dag?

Aðferð formannsins, sem lýst var hér á undan er besta leiðin til að drepa niður allan áhuga og frumkvæði og er því miður allt of ríkjandi í verkalýðshreyfingunni.

Hvað er framundan?

Umboðsleysi angrar ekki forystumenn verkalýðsheryfingarinnar. Það er haldið áfram fullum fetum að undirbúa heildarsamningagerð. Að honum vinna miðstjórnarmenn ASÍ og forsvarsmenn stéttafélaga og sérsambanda, sem aðild eiga að sambandinu. Næsta skref á að verða önnur ráðstefna á desember 2-3 vikum áður en samningar eru lausir. Í þessu sambandi er rétt að benda á að samningum verður að segja lausum 1. des.n.k. svo hægt sé að ganga til samninga upp úr áramótum. Sé það ekki gert, framlengjast þeir sjálfkrafa um þrjá mánuði.

Af hverju ekki samflot?

Hvers vegna hömumst við svona útí samflot? Jú, okkur finnst reynslan af þeim slæm. Það hafa komið í veg fyrir að einstök félög og sambönd nái hámarksárangri, stéttafélögin fá ekki að velja vígvöllinn þ.e. besta tíma sín vegna og hentugustu leiðir. Þau hafa komið í veg fyrir að ýmis brennandi mál einstakra hópa kæmu fram, þau hafa þurrkað út sérkröfurnar, sem oft eru ekki síður mikilvægar fyrir félögin. Þau minnka enn það litla lýðræði, sem eftir er í verkalýðshreyfingunni og útiloka að mestu mæguleika fólks til að hafa áhrif á niðurstöður.

Við erum ekki á móti samvinnu stéttafélaga og viljum efla sem mest einingu meðal vinnandi fólks. Við erum hins vegar á móti samflotaeiningunni, því það er gervieining.

Okkar einig er byggð á grundvelli saneiginlegra hagsmuna og baráttumála. Aðeins þannig verður samstaðan öflug. Stéttarfélög og sambönd með svipuð baráttumál og baráttustöðu geta og eiga að hafa samvinnu og styrkja hvort annað - og aðstaðan getur kallað á samræmdar aðgerðir allrar verkalýðshreyfingarinnar. Það væru t.d. eðlileg viðbrögð við banni stjórnvalda við verkföllum.

En í venjubundnum kjarasamningum verði einstök stéttafélög og sambönd að ráða ferðinni. Það er besta leiðin til árangurs.

Ragnar.

## BHM:

# 16% kauprán

Skv. fréttabréf BHM hafa stjórnvöld - báðar ríkisstjórnirnar síðustu - skert kaup launafólks í BHM um 16% frá undirritun kjarasamninga 1977. Nú eru algeng laun í BHM (105 fl.): 350.223 kr (4.þrep.). Kaupránið í október er því: rúmar 56þús.kr. Stjórnvöld náðu þessu með því að skerða m.a. vísitölubætur undir því yfirskini að "hálaunamenn" mættu ekki fá of mikið af því sem peningavaldið telur sig hafa efni á að greiða. Þessi röksemdafærsla á að ganga í augu "láglaunafólksins" - enda tekur ASÍ t.d."heilshugar undir.

En í raun þær "láglaunafólkið" ekki meira en ella og hver er nú láglaunamaður og hver hálaunamaður þegar áætlaður framfærslukostnaður 4 manna fjölskyldu er um 350 þús. á mánuði.?

Íhaldið vill nánast afnema verðbætur á laun og gerfiverkalýðsflokkar vilja setja "þak" á verðbætur og jafna launamismun. Gott og vel - launamunur skal minnka, en ekki með því að koma öllum á sömu sultarlaun undir framfærslukostnaði miðað við 8 st. vinnudag?

Fyrir skömmu var þess farið á leit við Jón Hannesson, formann launamálaráðs BHM, að BHM efndi til almenns fundar um viðhorfin á samnigamálum. Það gengur ekkert né rekur með kjarasamningana. Menn geta ekki setið auðum höndum.

- Fréttaritari-

# Af INSÍ þingi



Frá INSÍ - þingi. (Mynd:Verkalýðsblaðið.)

26-28 okt.s.l. var 37.sambandsþing INSÍ haldið. Að þessu sinni sátu 70-90 fulltrúar frá 12 aðildarfélögum, 9 úr Reykjavík og 3 utan af landi, þingið.

Að lokinni setningarræðu formanns INSÍ ávarpaði menntamálaráðherra,Vilmundur Gylfason,þingfulltrúa. Því næst flutti John Möller,gestur INSÍ, ræðu sem með fylgdu baráttukveðjur frá iðnnemum og iðnnemafélagi Færeyja. Eftir þau góðu orð var lesið upp skeyti sem þinginu barst,baráttukveðjur frá Snorra Jónssyni form. ASÍ. Síðan hófust umræður og störf af fullum krafti.

Að þessu sinni tókust á, óvenju skýrar andstæður í kjaramálum iðnnema. Annars vegar stóðu "vinstri menn" sameinaðir um að verja þyrfti kaupmáttinn, samnings- og verkfallsréttinn, auka þyrfti lýðræðið í verkalýðshreyfingunni, hafna ætti "samflotum" sökum slæmrar reynslu af þeim, og síðast en ekki síst, hefja þyrfti baráttu fyrir raunverulegum verðbótum á laun.

Hins vegar lágu frammi tillögur frá mönnum sem kalla vildu sig hægri lýðræðissinna. Megin inntakið í þeirra málflutningi virtist vera, að kaup iðnnema og annarra launþega í landinu, væri nú þegar helst til of hátt. Eða orðrétt: "Þó verður verkalýðshreyfingin að bera fram raunhæfar launakröfur með tilliti til greiðslugetu atvinnuveganna. Ennfremur vill það oft gleymast, í hita leiksins um að skifta þjóðarkökunni" að hana þarf líka að baka. Þess vegna skorar 37.þing INSÍ. á alla aðila vinnumarkaðarins að beita sér fyrir upptöku hvetjandi launakerfis í öllum þeim starfsgreinum þjóðfélagsins sem unnt er. Mun það stuðla að betri afköstum allra starfsgreina og því meiri þjóðar auður og betri afkoma" (tilvitnun líkur).

Í raun yrði þessar tillögur lýðræðissinna vera teknar beint út úr stefnuskrá Sjálfstæðisflokksins og eða vinnuveitendasambandsins. Hvort það er rétt eða samband þar á milli, er erfitt að dæma um, en hitt er víst, að þessir hægrisinnar skipulögðu sjálfan sig og málflutning í húsnæði Sjálfstæðisflokksins (Valhöll) og nutu við það aðstoðar Péturs Sailor og Hannesar H.Gissurarsinar.

Í afgreiðslu kjaramálanna, guldu tillögur hægri mannanna algjört afhroð. Þar sem töluvert verið rætt um einhverja hægri sveiflu víða í heiminum, má verkalýður, iðnnemar og hreyfing okkar vel við una þessumm málalokum. Skjálfti okkar var óþarfur.

Helsta ágreiningsmálið í iðnfræðsluályktun var um 2 mál: Annars vegar spurningin um þá kröfu INSÍ að verknámsskólanemendur og meistarakerfisnemendur skuli njóta sönu kjara, og hins vegar hvort verkskólinn skuli rekin alfarið af ríkinu, eða af hvortveggja , ríki og borg.

E.G.



Fjársvik – Fjárdráttur – Tvöfalt siðgæði




## Skipasala til S-Afríku

Snæfugl SU 20, sem er 250 lesta stálbálur frá Reyðarfirði, hefur verið seldur til S-Afríku. Söluverð hans er 150 millj. íslenskra króna, og var það greitt út í hönd. Snæfugl, sem var smíðaður í Noregi árið 1964, hefur í gegnum árin verið gott aflaskip. Í viðtali við Þjóðviljann 24. okt. sl. segir Hallgrímur Jónsson, útgerðarstjóri skipsins, að ástæða þess að menn kæmu frá S-Afríku til að kaupa fiskiskip væri fyrst og fremst sú að hér fengju þeir ódýrara skip en sambærileg skip annastaðar. Þá sagði hann að sala skipsins væri mikið happ, því aðrir kaupendur hefðu ekki greitt út í hönd. Lesendur blaðsins höfðu samband við blaðið vegna þessara frétta, og báðu okkur að kanna hvort sala skipsins væri lögleg. Mál manna væri jú að það væri viðskiptabann á S-Afríku vegna kynþáttaaðskilnaðarstefnu hvíta minnihlutans er landinu stjórnar.

Sameinuðu Þjóðirnar og S-Afríka.

Málefni S-Afríku hafa hvað eftir annað komið til umræðu á vettvangi SÞ. Stjórnvöld þar hafa hvað eftir annað verið fordæmd fyrir hrottalega aðskilnaðarstefnu og nýlendukúgun á Namibíu. Öryggisráðið hefur samþykkt vopnasölubann á landið, sem ekki hefur verið haldið. Hafa m.a. Ísraelsmenn selt þangað vopn. Allaherjarþingið hefur samþykkt viljayfirlýsingar þess efnis að komið verði á allsherjar viðskiptabanni á landið, en því hafa helstu viðskiftalönd þess ekki viljað hlýða. Samþykktir Allsherjarþingsins eru ekki bindandi fyrir aðildarríki SÞ. Á vettvangi SÞ hefur Ísland verið í hópi þeirra ríkja er lengst hafa viljað ganga í þá átt að einangra S-Afríku, og er það vel. Í skýrslu Einars Ágústssonar um utanríkismál 1978 segir m.a. svo um S-Afríku:

"Á vettvangi SÞ munu Norðurlöndin í samræmi við stefnu sina aðallega:

1). Vinna að því að Öryggisráðið láti frá sér fara samþykki er beinist gegn nýjum fjarfestingum í S-Afríku.
2) Stuðli að tillöguflutningi í Öryggisráðinu sem leitt gæti til bindandi samþykkta gegn viðskiptum við S-Afríku.
3) Vinna að því að samþykkt Öryggisráðsins um vopnabann í S-Afríku verði haldið í hvívetna.

Skýrsla Benedikts Gröndal um utanríkismál 1979 gengur í sömu átt.

Hvað segja ráðuneytin?

Verkalýðsblaðið hafði samband við Utanríkisráðuneytið vegna þessa máls, og spurði hvort ráðuneytið hygðist leggja stein í götu þess að Snæfugl yrði seldur til S-Afríku. Blaðið benti á, að Ísland hefði á alþjóðavettvangi stutt og verið flytjandi tillagna um viðskiptabann á landið. Við fengum þau svör, að Viðskiptaráðuneytið hefði gert sams konar fyrirspurn, og fengið það svar að þar sem samþykktir allsherjarþingsins væru ekki bindandi fyrir aðildarríki SÞ, væri engin leið að hindra viðskipti við landið. Nema auðvitað að íslensk stjórnvöld settu lög er bönnuðu slík viðskipti, en það hefðu þau ekki gert. "Ef Íslendingar selja þeim ekki skip, þá kaupa þeir þau bara annars staðar, svo lengi sem ekki næst alþjóðleg samstaða um algert viðskiptabann" sagði einn viðmælandi blaðsins í Utanríkisráðuneytinu

Að vera samkvæmur sér.

Verkalýðsblaðið kannaði hver viðskipti Íslands og S-Afríku hefðu verið undanfarin ár. Niðurstaðan var sú, að þau hefðu verið sáralítil. Íslendingar hafa keypt niðursuðuvörur (aðallega ávexti) og selt þangað lítilsháttar fiskafurðir ( mjöl og lýsi ). Þessi viðskipti eru aðeins prósentubrot af utanríkisverslun Íslands. Það sýnir hversu lítilmótlegir íslenskir auðmenn eru, að þeir gjálda jáyrði við því að samþykkja viðskiptabann – svo lengi sem viðskiptin eru nánast engin, en ganga þannig frá hnútunum, að þessar samþykktir eru ekki bindandi fyrir þá – reki einhver viðskipti á fjörur þeirra. Einn viðmælenda blaðsins í Viðskiptaráðuneytinu sagði, að í besta falli gæti þetta kallast tvöfallt siðgæði. Verkalýðsblaðið vill kalla þetta siðleysi, en á máli auðmannanna heitir þetta hagsýni og viðskiptavit.

Eik (m-l) hafa safnað fé til stuðnings alþýðu S-Afríku, og ASÍ hefur stutt frelsissamtök þar með fjárframlagi.Þetta er í samræmi við vilja frelsisunnandi fólks um allan heim. Íslensk stjórnvöld hafa á alþjóðavettvangi barist gegn kynþáttakúgurunum í S-Afríku. Það er krafa okkar að saman fari orð og gerðir, og að tekið verði fyrir öll viðskipti við S-Afríku.

-Karl.

# Snæfugl seldur til Suður-Afríku

## Söluverðið er 150 milj. kr. sem greitt er út í hönd

Snæfugl SU 20, sem er 250 lesta stálbátur frá Reyðarfirði hefur verið seldur til S-Afríku fyrir sem nemur 150 milj. íslenskra króna og er kaupverðið greitt út í hönd. Snæfugl var smíðaður í Noregi árið 1964.

Hallgrímur Jónasson útgerðarstjóri skipsins sagði í viðtalið við Þjóðviljann að einungis væri eftir að ganga frá nokkrum formsatriðum við kaupandann sem er staddur hér á landi.

Ástæðan fyrir því að maður kemur frá S-Afríku til að kaupa skip á Íslandi er fyrst og fremst sú að skipið er ódýrara en sambærileg skip annarsstaðar. En það munar mestu að skipið er greitt út í hönd, í stað þess að ef það hefði verið selt hér innanlands hefði útborgun verið 15 til 20 milj. kr. en afgangurinn skuldabréf sem engin leið væri að koma í peninga.

Hallgrímur sagði að þeir Reyðfirðingar væru með þær hugmyndir að fá skuttogara í staðinn en sá róður væri þungur um þessar mundir og óvíst um leikslok. Um þann möguleika að láta byggja skip hér innanlands sagði Hallgrímur að vaxtapólitikin væri þannig að slíkt skip myndi ekki einu sinni afla fyrir vaxtagreiðslum, hvað þá meiru. S.dór



Halldór Ásgrímsson er einn af fimm eigendum Skinneyjar h/f,Höfn í Hornafirði. Skyldu vera fleiri "væntanlegir þingmenn" í hópi þeirra sem viðriðnir eru fjárglæframál?

# Fjársv

Í síðustu tveimur tbl. höfum við fjallað nokkuð um fjársvik við skipakaup frá Noregi. M.a. hefur verið sagt frá því, að hér sé um að ræða misferli við kaup á 18 skipum og nemi fjársvikin alls ca. 630.000.000 kr. eða u.þ.b. 35.000.000 kr. á skip. Svikin eru fólgin í því að kaupendur hafa gefið íslenskumog norskum stjórnvöldum upp of hátt verð og náð með þeim hætti hærri lánum og gjaldeyrisyfirfærslum en þeim bar. Við höfum einnig sagt frá þögn dagblaða og annara fjölmiðla og tregðu yfirvalda til að gefa upplýsingar um málið . Hefur sú staðhæfing verið sett fram, að skipakaupendurnir hafi veruleg ítök í ríkisvaldinu og fjöðmiðlum og geti í skjóli þess stuðlað að því að málin fyrnist og gleymist.

Frá því síðasta tbl. kom út höfum við enn reynt að afla upplýsinga og hefur heldur rofað til. Samkvæmt upplýsingum Þórðar Björnssonar, saksóknara ríkisins, voru mál tveggja skipa send rannsóknarlögreglu ríkisins, þ. 1. febrúar sl. eða fyrir u.þ.b. níu mánuðum. Þórður upplýsti að hér væri um að ræða

Siglufjörður

# Þar vantaði [...] og kvitta[...]

Það er ekki aðeins í hinu "frjálsa framtaki" að milljónirnar renna eftir huldum brautum. Í opinberum rekstri er fjármálasukk og óreiða í miklum mæli. Í gegnum hendur t.d. sveitarstjórna fer mikið fjármagn. Er það víst að enginn næli sér í aukabita af þessu fé? Það er vægast sagt ástæða til þess að vekja grunsemdir að lítið sem ekkert bókhald geti falið stórfellt fjársukk og misferli.

## 3,6 milljónir vantar

Á Siglufirði er sú staða í fjárreiðum bæjarins að en hefur ekki tekist að finna 3.6 milljónir króna, sem á vantaði þegar reikningum bæjarins fyrir árið 1977 var lokað. Sjóðvöntun upp á 3.6 milljónir var færð yfir á næsta ár og sú von sjálfsagt látin fylgja að þessar milljónir kæmu í ljós. Hvað þær hafa ekki gert. Það eru fleiri sjóðir skrítnir á Siglufirði. Nýlega var stærsti hluti bæjarins tengdur hitaveitu. Áður voru hús þar hituð upp með olíu. Húseigendur fengu greiddan olíustyrk svo sem eðlilegt er. Það hefur svo komið í ljós að eftir að hitaveitan kom hélt olíusjóður bæjarins áfram að fá

# ik við skipakaup

mál vegna kaupa á m/s Skinney Sf (nú m/s Sindri Ve), sem keypt var frá Noregi árið 1975 og kaup á m/s Gullbergi Ns, sem keypt var frá Noregi árið 1977. Í skipaskrá er upphaflegur eigandi m/s Skinney talið samnefnt hlutafélag á Höfn, hornafirði, og m/s Gullberga Fiskvinnslan h.f. Seyðisfirði. Vbl. hefur aflað upplýsinga úr firmaskrám um eigendur þessara hlutafélaga. Eru eigendur Skinneyjar h.f. Þau Birgir Sigurðsson, Jóna Eðvaldsdóttir, Ingólfur Ásgrímsson, Ásgrímur Halldórsson, framkvæmdastjóri og fyrrv. kaupfélagsstjóri og Halldór Ásgrímsson,fyrrv. alþingismaður. Eigendur Fiskvinnslunar h.f. eru Trausti Magnússon, Þorbergur Þórarinsson, forstjóri, Gísli Sigurðsson, Ágúst Sigurjónsson, Friðþjófur Þórarinsson, Páll Vilhjálmsson, Ólafur M. Ólafsson, útgerðarmaður Sveinn Guðmundsson, Hjörtur Hjartarson, forstjóri, Jón Pálsson og Guðmundur Matthíasson.

Ýmsir þessara manna eru innstu koppar í búri í bæjarfélögunum sínum. Eiga þeir eða stjórna hestu atvinnutækjunum og stjórna bæjarfélögunum sjálfir beint og óbeint. Ekki skortir heldur tengslin við SÍS, Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna, þingflokkana og þar með ríkisvaldið.

Í síðasta tbl. bentum við á, að það væri með ólíkindum hve margir þyrtu að rannsaka þessi mál. Nú síðast sannsóknarlögregla ríkisins í níu mánuði og sér ekki fyrir endann á því. Fram hefur komið, að Guðmundur Skaftason,löggiltur endurskoðaði og lögfræðingur sé sérstakur ráðunautur Hallvarðs Einvarðsson rannsóknarlögreglustjóra í þessum málum og fari með rannsókn þeirra. Guðmundur þessi Skaftason hefur,skv. upplýsingum sem Vbl.hefur aflað um manninn, starfað mikið fyrir SÍS og kaupfélögin, sem sérstakur ráðgjafi á sínum sérsviðum. Það verður að ætla að hann sé vel hæfur til að fjalla um málin.

Vbl. hefur haldið því fram í fyrri greinum um málið, að viðkomandi skipakaupendur þurfi ekki að óttars refsingu fyrir fjársvikin. Þeirra er ríkisvaldið og það passar sína. Nöfn þeirra sem hlut eiga að þessum tveimur skipum, sem nefnd hafa verið, staðfesta þessa skoðun okkar. Hegningarlögunum er ekki ætlað að bitna á hvítflibba-"krimmunum". Almenningur á aftur á móti heimtingu á því, að þeir sem svíki út milljónatugi úr almannasjóðum verði látnir svara til saka.

Í síðasta tbl. vöktum við einnig athygli núverandi dómsmálaráðherra, Vilmundar Gylfasonar, á því, að hér væri kjörið tækifæri til að standa við fyrirheitin um að fletta ofan af neðanjarðahagkerfinu. Vilmundur hefur enn ekki látið til sín taka í þessum málum, en við heitum á ný á liðsinni hans. Okkur skortir margvíslegar upplýsingar, einkum um áhrifavald fyrrnefndra einstaklinga í bæjarfélögum sínum og þjóðfélaginu almennt. Upplýsingar um tengsl þeirra við auðhringa landsins, við SÍS, Sölumiðstöð hraðfristihúsanna, Eimskipafélagið og Flugleiðir og tengsl þeirra við þingflokkana, ríkisvaldið og um leið þá sem eiga að rannsaka og dæma í málum þeirra. Vbl. tekur fúslega við öllum upplýsingum, skriflegum sem munnlegum, nafnlausum og nafngreindum.

En vel að merkja, þau tvö skip sem nefnd hafa verið voru ekki einu skipin sem keypt voru með baksamningum. Þau voru a.m.k. 16 önnur að sögn skattrannsóknarstjóra. Samkvæmt upplýsingum Sigurðar Jóhannssonar hjá gjaldeyriseftirliti Seðlabanka Íslands, er í undirbúningi að senda nokkur í viðbót til saksóknara. Kvað Sigurður

frh. bls. 6

## Nýjustu fréttir



# Fær bankastjóri jólagæs gefins?

## Spilling í bankakerfinu

Vbl. hefur haft veður af sérstæðri spillingu sem þrífst í Landsbanka Íslands. Bankastjórar, útibústjórar, deildarstjórar, skrifstofustjórar og aðrir enbættirmenn í "æðri" stöðum mata óspart krókinn á kostnað bankans þ.e. viðskiptamanna. Ef því eru þó undantekningar.

Dæmi um spillinguna eru þessi:

- Launaðir starfsmenn eru sendir í bílaviðgerðir, garðvinnu, og einkasendiferðir fyrir embættismennina.
- Erlendir gestir, sem ekki eru endilega á vegum bankans, komast í laxveiði með tilheyandi "luxus" á kostnað bankans - auðvitað með embættismönnum og kunnungjum þeirra.
- Sumarvinnufólk (aðallega skólanemar) eru flestir ráðnir í "gegnum klíku". Mestu ráða fjölskyldutengsl og eru sumarvinnumenn oft margir sumar eftir sumar.
- Bankastarfsmenn eru látnir aka "jólagjöfum" frá voldugum viðskiptavinum úti í bæ til embættismanna bankans - víni, mat ofl. Í staðinn fá þessir aðilar greiðslufresti og aðra fyrigreiðslu - m.a. gjaldeyrisyfirfærslur. Oft fá hinir almennu bankastarfsmenn aukaþóknun fyrir erfiðari störfin og leikur grunur á að þar sé greitt með fé bankans.

Við spyrjum því:

Menn eins og Einar Olgreisson sitja í bankaráði Landsbankans ásamt fulltrúum annara stjórnmálaflokka - vita þeir af þessu? Ef ekki þá er það krafa margra að yfirlýsing "fulltrúa alþýðunnar" láti rannsaka þessi mál.
Og Vilmundur, dómsmálaráðherra: það þarf ekki neina skipun um rannsókn til réttra aðila.

- agé.

# milljónir nir!

sent fé í sama mæli og áður frá ríkinu. Hvað af því fé hefur orðið sem fara átti til þeirra húseigenda sem fengið hafa hitaveitu og þar með orðið af olíustyrk er ekki vitað. Hjá olíusjóði Siglufjarðarkaupstaðar eru ekki til nein fylgiskjöl eða kvittanir - öllu hefur verið hent - en peningarnir runnið í hinn falda sjóð.

## Beðið um rannsókn

Upplýsingar sem Verkalýðsblaðið hefur fengið segja að búið sé að víkja þeim starfsmönnum sem um olíusjóðinn sáu úr störfum á meðan á rannsókn stendur. Samþykkt hefur verið í bæjarstjórn að óska eftir rannsóknaraðila frá Félagsmálaráðuneytinu til að rannsaka fjárreiður bæjarins. Það er líka sagt á Siglufirði að frímúrarar standi dyggilegan vörð um sína félaga sem nálægt þess um málum hafa komið.

Víst er að hér er um verulegar fjárhæðir að ræða Fyrir utan þær 3.6 milljónir sem ekki finnast og vantar í bæjarsjóð má gera ráð fyrir að olíupeningarnir nemi milljónum.

-Æ.



Það hefur verið mikið að gera á Siglufirði undanfarin ár. Loðnubræðsla Síldarverksmiðja ríkisins blæs gufumekki yfir bæinn. Lyktin hefur verið kölluð peningalykt. En peningar þeir sem verkafólk vinnur sér inn með mikilli vinnu í verksmiðjunum eru heiðarlega fengnir. Á bæjarskrifstofu Siglufjarðarkaupstaðar hefur um árabil viðgengist slík fjármálaóreiða að fá dæmi eru um slíkt. Þar hverfa milljónir út í buskann eins og gufustrókurinn úr verksmiðjunum.

(Mynd:Verkalýðsblaðið.)

# Siglósíld súr og ný

Lagmetisiðjan Siglósíld á Siglufirði er í eigu ríkisins. Í verksmiðjunni starfa hátt í hundrað manns. Það væri ekki svo lítill skellur fyrir siglfirskt verkafólk ef þessi verksmiðja yrði að loka vegna þess að enginn vildi kaupa framleiðsluna.

## Vogun vinnur — vogun tapar

Skemmda síldin frá verksmiðju Kristjáns Jónssonar & Co. á Akureyri varð til þess að sovésku kaupendurnir neituðu að taka við sendingu frá Sigló. Sendingin beið of lengi og skemmdist.

Eftir upplýsingum sem Verkalýðsblaðið hefur aflað sér hefur átt sér stað hroðaleg meðferð á hráefni í Sigló verksmiðjunni. Er þar um að ræða að við niðurlagningu hefur verið blandað saman súrri og ónýtri síld og góðu hráefni. Slíkt er ekki aðeins til þess að eyðileggja sölumöguleika verksmiðjunnar heldur líka til þess að eyðileggja sölumöguleika verksmiðjunnar heldur líka til þess að eyðileggja vinnustaði siglfirsks verkafólks og er það mikilvægara.

Þá sem bera ábyrgð á slíkum vinnubrögðum á að draga fyrir rétt, því hér er um bein skemmdarverk að ræða.

-Æ

Bandaríkin:

# 8 mánaða verkfalli lýkur með sigri!

Eftir 15 ára harða baráttu og 8 mánaða verkfall unnu landbúnaðarverkamenn í Kaliforníu fullan sigur á atvinnurekendum og samtökum þeirra. Barátta landbúnaðarverkamanna stóð um annars vegar að mannréttindi þeirra, þ.á.m. réttur til að vera í verkalýðsfélagi, væru virt, og hins vegar um verulegar kjarabætur þeim til handa.

Undir forystu Sameinaðra Landbúnaðarverkamanna (United Farmworkers union, UFW ), lýstu landbúnaðarverkamenn yfir verkfalli í janúar á þessu ári. Þeir mótmæltu lágum launum, ömurlegri vinnuaðstöðu og kynþáttamisrétti af hálfu atvinnurekenda. Flestir landbúnaðarverkamenn eru Cihikanoar og fólk af mexikönskum uppruna.

Atvinnurekendur héldu, að með beitingu verkfallsbrota og ofbeldis gegn verkamönnum gætu þær brotið verkfallið á bak aftur á nokkrum vikum. Atvinnurekendur tóku fjölmiðla í sína þjónustu og ráku gegn þeim hatrama herferð til að svelta baráttu þeirra. Landbúnaðarverkamönnum var kennt um hækkandi matvöruverð.

Ofbeldi atvinnurekenda náði hámarki er vopnaðir verkfallsbrjótar myrtu UFW-félaga í febrúar sl. Í mótmælaskyni lögðu 12000 verkamenn niður vinnu á 1 dag. 11 júní ríkti styrjaldarástand í Salinasdalnum, er þúsundir verkamanna mótmæltu lögregluofbeldi gegn verkfallsmönnum. Verkfallsbrjótar voru stöðvaðir hvar sem í þá náðist, og þeim kennt hvað það þýðir að ganga í þjónustu atvinnurekenda til að ráðast gegn verkafólki (Sagt var frá þessu í Vbl. nr. 16 1979).

11. ágúst sóttu 25000 manns fund sem haldin var í Salinas til stuðnings landbúnaðarverkamönnunum, og stuðningur við baráttu þeirra varð meiri og meiri um öll Bandaríkin. Samtök atvinnurekenda neyddust því til að semja. Laun landbúnaðarverkamanna hækkuðu nálægt um helming, sjúkragreiðslur um 300%, auk mikilvægra ákvæða í kjarasamningum um rétt fagfélagsins og atvinnuöryggi gagnvart aukinni vélvæðingu í landbúnaði.

Fordæmi landbúnaðarverkamanna í Kaliforniu hefur ýtt undir sams konar baráttu í Ohio, Flórída og Texas. Vígorð UFW, " Viva la huelga", lifi verkfallið heyrist nú víðar um Bandaríkin. (Unity, nr. 20,1979)




Febrúar: Við getum brotið verkalýðsfélagið á bak aftur á 2 mánuðum: Ég skrifa aldrei undir samninga við það. 7 mánuðum síðar: "Si se puede", Við getum sigrað. (Mynd: Unity).

## Vandi borgaralegs

frh. af baksíðu

Rvk. Þjóðviljinn gat þess ekki - heldur nefndi aðeins fjölda nafnanna sem flokksmenn bentu á. Samtímis hefur flokkurinn enn ekki lagt fram stefnu í kosningabaráttunni - enn bólar ekki á yfirliti yfir það sem AB vill gera næsta ár eða svo. Forystumenn AB skamma hið "þríeina íhald", á meðan þeir snúa saman stefnu í kyrrþei, bjóða upp á forval og biðla til þúsundanna sem kusu AB í Rvk í síðustu alþingiskosningum

Þessu er líkt farið í Framsóknar- og Alþýðuflokki. Það er einna helst báknið Sjálfstæðisflokkur sem reynir að spyrja kjósendur sína dálítilla ráða fyrst af öllu.

- agé.

## Fjársvik ...

framh. af síðu 5

málin umfangsmikil og að varhugavert væri að senda þau frá gjaldeyriseftirlitinu án rökstuðnings. Hann sagði Vbl. einnig, að engin hætta væri á að málin fyrnist meðan unnið væri að þeim og samband haft við málsaðila. Þórður Björnsson, saksóknari, sagði Vbl. hinsvegar að málin fyrnist ef þau væru ekki dæmsett. Skoðanir þessara embættismanna um fyrningu virðast því ekki fara saman.

Við ítrekum, að það er ekki von til þess, að "kerfið" fari að ljóstra upp um hina raunverulegu kerfiseigendur. Það verða aðrir að gera og það fyrst og fremst almenningur. Vbl. hvetur lesendur enn til þess að aðstoða okkur við að varpa ljósi á neðanjarðarhagkerfið og hvítflibbakarlana, sem ráðskast með allflest framleiðslutæki á Íslandi í eiginhagsmunaskyni.



táknar kjararán

# Kosningar og kommúnistar

Við kommúnistar afneitum ekki borgaralegu þingræði sem baráttuvettvangi. Þingræðisskipulagið er mikilvægur vettvangur stéttabaráttu, en ekki sá mikilvægasti.

Á meðan kommúnísk hreyfing er veik og ristir grunnt meðal fjöldans er það beinlínis rangt að einbeita þessu litla afli í þingræðisbaráttu. Sterk staða kommúnista innan þingræðisins er háð sterkri stöðu og mikilli fjöldavirkni í samtökum alþýðunnar - fyrst og fremst hagsmunahreyfingu launafólks.

Framboð til kosninga getur verið rétt aðgerð, enda þótt kommúníska hreyfingin sé veik. Tilgangur slíks framboðs er annasvegar sá ávinningur sem aukin áróðursstaða í kosningunum gefur og hinsvegar styrkleikamæling á stefnu kommúnista.

Annar möguleiki fyrir kommúnista er að stuðla að framboði á samfylkingarformi, þ.e. kommúnistar og annarra baráttusinna. Slík framboð byggist þá gjarnan á fáum afmörkuðum baráttumálum, sem sameinast er um.

Enn einn möguleiki á þátttöku í kosningum er að hvetja kjósendur til þess að skila auðum atkvæðaseðli. Auður atkvæðaseðill táknar andstöðu við þann leik borgaralegu flokkanna að hafa alþýðu manna að leiksoppi.

## Af hverju ekki samfylkingarframboð?

Fyrir komandi kosningar hafa átt sér stað viðræður milli hreyfinganna vinstra megin við Alþýðubandalagið Leitað var eftir sameiginlegum grundvelli til framboðs þessara afla. Sá grundvöllur fannst ekki. Ástæða er til þess að spyrja hvers vegna.

Skýrasta svarið er það að slík samfylking hefði orðið pappírssamfylking - samfylking smíðuð á einhverju skrifborði og send í framboð. Í dag er ekki til nein samfylking sem nær til helstu baráttumála launafólks. Um einstök mál hafa verið myndaðar hreyfingar eða samstarfshópar, svo sem gegn fækkunum á ríkisspítölunum, Andóf '79. Þetta eru ekki kosningasveitir, heldur baráttusveitir um afmörkuð mál, sem eru afar brýn fyrir ákveðin félög og samtök launafólks. Aðeins dugmikið starf að slíkum baráttumálum getur orðið til þess að heildarhreyfing andstöðuliðs (ekki skipulögð samtök) verði til. Þá er fyrst hægt að athuga hvort slík hreyfing sé grundvöllur fyrir samfylkingarframboð baráttusinna. Á meðan við kommúnistar stöndum ekki í stykkinu á samtökum launafólks er stökk inn í kosningasirkusinn sóun á kröftum og vindhögg. Styrkur okkar er ekki fólginn í því að við viljum vel, heldur sá vilji verði að verki.

## Af hverju ekki eigið framboð EIK(m-l)?

Það hefur sjálfsagt verið reifað víða hvort Eik (m-l) ætli ekki að bjóða fram til kosninganna. Tilgangur eigin framboðs kommúnískra samtaka, eins og Eik(m-l) sem ekki geta búist við því að fá kjörinn þingmann, er helst sá að fá sterkari áróðursstöðu í kosningaundirbúningum og úrslitin gefa til kynna hver styrkur stefnu þeirra er. Sjálfsagt verður áróðursstaðan sterkari með framboði, en hve mikill ávinningurinn er má deila um. Nokkrar mínútur í sjón- og útvarpi, fátækleg skrif í blöðum ( jafnvel ekki meira en birting framboðslistans ) o.s.frv. Úrslitin, fjöldi atkvæða, gefur okkur hugmynd um það hversu langt við höfum náð. Um þetta atriði má spyrja - vitum við ekki talsvert um það? Er t.d. útbreiðsla Verkalýðsblaðsins ekki svolítill mælikvarði? Önnur atriði mætti nefna. Vbl. nær til mjög lítils hluta þess fjölda sem það höfðar til. Það eru miklu fleiri en þeir sem lesa blaðið sem hefðu gagn af því að lesa það.

Í stað framboðs tökum við þátt í kosningunum með því að hvetja til auðra atkvæðaseðla. Það er allnokkur fjöldi sem óskar eftir því að nota atkvæði sitt á þennan hátt vegna andstöðu við pretti og svik stóru flokkanna. Þessari andstöðu verðum við að samfylkja og snúa upp í baráttu gegn kosningasvindlinu - loforðum sem svíkja á, glansmyndum sem fölna eftir kosningar o.s.frv. Hunsun á kosningarnar er sterkasta tilhneygingin til andstöðu við borgaralega þingræðið núna. Þetta er réttmæt afstaða fjölda fólks við þær aðstæður sem nú eru. Við skulum styrkja þessa afstöðu og beita því afli sem við höfum til þess að styrkja almenna andstöðu við þá ránsstefnu, sem allir flokkarnir hafa í frammi, á hendur launafólki.

Kjarabætur koma ekki úr kjörkössunum núna fremur en endranær - en kjarabætur vinnast með gegnstilltu átaki fjöldans gegn stefnu flokkanna. Í komandi kosningum táknar X á kjörseðli kjararán. Auður seðill er tákn um andstöðu.

-Æ.



Farmenn háðu verkfall á dögum "vinstri"stjórnar. Þeir stóðu einir gegn sameinuðu valdi ríkis,atvinnurekenda og ASÍ. Nú er gengið til kosninga. Skyldu farmenn gleypa við þeim áróðri að "kjarabætur verði taldar upp úr kjörkössunum"? Að setja X við einhvern þingflokkana er að kjósa yfir sig kjararán og takmörkun á samningsrétti launafólks.

**Lítið erlent efni.**

Í þessu tbl. höfum við takmarkað plássið fyrir efni um erlend málefni. Nú og í næstu blöðum munum við láta efni um innlend málefni, kosningar og kjarabaráttu hafa forgang og verðum því að ganga á hlut erlendum síðunnar.

Ritstj.

*viðhorf*

Hér í Verkalýðsblaðinu munu birtast óreglulega greinar undir samheitinu "VIÐHORF". Þetta verða nokkurs konar fréttaskýringarþættir. Viðhorfsgreinarnar túlka ekki nauðsynlega afstöðu Verkalýðsblaðsins eða Einingarsamtakanna.

# Stjórnmálaástandið

Verkalýðsblaðið og EIK (m-l) hafa lítið skipt sér af innbyrðis erjum borgaralegu stjórnmálaflokkanna. Í augum þeirra hafa stjórnmáladeilurnar einungis verið val á milli mismunandi tilbrigða af svörtu. Dæmigert var t.d. í fyrrasumar þegar Verkalýðsblaðið og EIK (m-l) miðuðu áróður sinn í kosningunum við það að allir stjórnmálaflokkarnir væru eins. Og vegna þess að EIK-in byði ekki fram hefðu kjósendur engan valkost.

Það er því kominn tími til að Verkalýðsblaðið og útgefendur þess átti sig á því að litróf stjórnmálabaráttunnar hefur fleiri liti en svart og hvítt, að þau átti sig á því að kjósendur borgaralegu stjórnmálaflokkanna er hvorki meira né minna en sú alþýða sem síðar meir þarf að framkvæma verkalýðsbyltingu hér á landi. Ef samtök marx-lenínista hér á landi eiga að komast nokkru nær markmiðum sínum verða þau að búa yfir dómgreind og hlutlægni og varast að hunsa alþýðuna.

Þegar ferill fyrrverandi ríkisstjórnar er metinn komumst við á Verkalýðsblaðinu ekki hjá því að taka undir með íhaldinu: Sjaldan hefur það áður gerst í íslenskri stjórnmálasögu að stjórnmálaflokkar - í þessu tilfelli A-flokkarnir - hafi gengið jafn hrikalega á bak kosningaloforðum sínum. En lengra liggja leiðir okkar og íhaldsins saman.

Stjórnin byrjaði að vísu vel. Kjaraskerðingarlög hægri stjórnarinnar voru afnumin og söluskattur af matvörum felldur niður. En jafnframt var gengið fellt um 15% og niðurgreiðslur stórauknar með fyrirheit um auknar skattaálögur síðar meir.

Eftir þessa byrjun var síðan saga stjórnarinnar sagan um hvernig borgaralegu stjórnmálaflokkarnir líta á það sem helsta hlutverk sitt að koma í veg fyrir grunnkaupshækkanir, skerða vísitölubætur og spara í ríkisbúskapnum með því að minnka félagslega þjónustu.

Stjórnin var ekki verkalýðssinnuð þrátt fyrir fögur fyrirheit. Hún leit svo á að verkafólkið í landinu væri meginorsök efnahagserfiðleika auðvaldsþjóðfélagsins og hegðaði sér samkvæmt því.

## Staða flokkanna

Málefnastaða A-flokkanna eftir þetta stjórnarsamstarf er afar veik. Viðbúið er að kratar missi meginhlutann af því fylgi sem þeir unnu fyrir ári síðan. A.m.k. bendir skoðanakönnun Dagblaðsins til þess.

Staða alþýðubandalagsins er öllu betri. Það missir a.m.k. ekki eins mikið fylgi og lagsbróðir þess, Alþýðuflokkurinn. En helstu talsmenn stjórnarsamstarfsins innan þess eiga í vök að verjast - einkum gagnvart róttækum öflum innan flokksins, svo ekki sé talað um herstöðvaandstæðinga. Róttæku öflin eru þó illa undirbúin og hafa að líkindum ekki mikil áhrif, það sýndi bæði Verkamannasambandsþingið og misheppnuð tilraun til að bola Garðari Sigurðssyni burt á Suðurlandi.

Staða Framsóknarflokksins er óviss.

Breytt vinnubrögð kratanna í upphafi stjórnarsamstarfsins, þegar allar deilur milli stjórnarflokkanna voru háðar á síðum dagblaðanna reyndist einkar hagstæð íhaldinu. Í stað þess að þurfa að sleikja sárin í ófyrirséðan tíma og rétta ekki úr kútnum fyrr en eftir allsherjaruppgjör innan flokksins gat íhaldið frestað þessu uppgjöri og spilað á móthverfur milli ríkisstjórnarflokkanna. Að sjálfsögðu hefur það verið auðvelt íhaldinu að lyfta sér upp á mismuninum á efnahagsstefnu stjórnarinnar og kosningaloforðum A-flokkanna frá sumri ´78. Prófkjörin í október hafa þó bent til þess að skammt sé samt sem áður í allsherjaruppgjörið innan flokkins og hann eigi erfitt með að nýta sér tækifærið til annars en að endurheimta fyrra fylgi.

Í heildina tekið má búast við allverulegri fylgisaukningu hjá íhaldinu, fylgishruni hjá krötum og tiltölulega litlum breytingum framsókn og allaböllum.

## Verkalýðsforystan

Á þessu ári hefur það orðið lýðum ljóst að verkalýðsforystan, sér í lagi sú sem er við stjórnvölinn í ASÍ, BSRB og Verkamannasambandinu, hefur meiri áhuga á að A-flokkarnir séu í ríkisstjórn og standi þar að kjaraskerðingum heldur en því að kaupmáttur launa haldist í landinu og verði aukinn.



Hér nægir að nefna liðveislu BSRB-forystunnar við áform ríkisstjórnarinnar að afnema 3% grunnkaupshækkunina í apríl, auk þess sem BSRB hefur enn ekki lagt fram neinar kjarakröfur, eða undirbúið nýja kjarasamningagerð að neinu marki.

Sama er að segja um forystu ASÍ og VMSÍ. Hún hefur lagst af alefli gegn hvers konar tilraunum ýmissa stéttarfélaga og sambanda til að vinna aftur kaupmáttarskerðinguna í tíð fyrrverandi ríkisstjórnar. Þar er skemmst að minnast afstöðu hennar til verkfalls Farmanna- og fiskimannasambandsins í sumar.

Það sem er þó synu alvarlegra er að þjónkun verkalýðsforystunnar við ríkisstjórnina og peningavaldið hefur skaðað vígstöðu verkalýðsins í landinu um ófyrirsjáanlega framtíð. Það mátti ekki litlu muna að Snorri Jónsson, Jakinn o.fl. kæmu skríðandi á hnjánum og bæðu ríkisstjórnina um lagasetningu á farmenn.

Auk þessa hefur sú þróun haldið áfram að ASÍ hefur sölsað undir sig æ meira vald í kjarasamningagerð og snúist gegn sjálfstæði hinna ýmsu stéttarfélaga. Þróun sem er VSÍ mjög að skapi.

## Horfurnar

Áður var minnst á líklega hægrisveiflu í kosningunum. Í raun og veru skiptir það ekki meginmáli. Helstu þættir þeirrar stjórnarstefnu sem verður rekin að ári komandi eru þegar markaðir í meginatriðum.

Það má nefna niðurskurð í ríkisframkvæmdum, einkum þó félagslegri þjónustu. Spurningin stendur aðeins um í hve miklum mæli hann verður.

Allir flokkarnir hafa þegar annað hvort í verki eða í orði lýst sig sammála breyttri vinnulöggjöf sem skerða mun mjög eða jafnvel afnema verkfalls- og samningsrétt hinna einstöku stéttarfélaga.

Sú stefna virðist líka hafa verið mörkuð að engar grunnkaupshækkanir verði á næsta ári ("verð-" og kauplagsstöðvun) og vísitölubætur á laun verði skertar enn frekar en orðið er.

## Mótspyrnan

Það verður erfiður róður inn að snúa við þeirri þróun sem þegar er hafin. Í raun og veru hefur aðeins verið hafin barátta í einhverjum mæli - smáum þó - gegn niðurskurði á ríkisspítulunum.

Á þessu ári hefur mistekist að efna til víðtækrar baráttu gegn kjaraskerðingunum og nær ekkert hefur verið andæft gegn fyrirhuguðum breytingum á vinnulöggjöfinni þrátt fyrir ákveðnar vísbendingar um þær.

## Einingarsamtök kommúnista (m-l)

Hlutur EIK (m-l) á þessu ári hefur verið fróðlegur. Þau hafa reynt af veikum mætti að styðja við frávillingana frá kauplagsstefnu ríkisstjórnar, ASÍ og VSÍ en ekki tekist að ná út fyrir raðir sínar.

Þau hafa farið almennum orðum um fyrirhugaðar breytingar á vinnulöggjöfinni en ekkert reynt til að skapa víðtæka samfylkingu gegn þeim.

Þau hafa stuðlað að myndun samfylkingar gegn niðurskurði á ríkisspítulunum einkum með ötulu starfi fréttaritara Verkalýðsblaðsins.

En það sem sýnir kannske einna best stöðu Einingarsamtakanna er afstaða þeirra til framboðs í komandi kosningum.

Stjórnarslitin og boðun kosninga í byrjun desember komu þeim algjörlega í opna skjöldu. Og af þeim fjórum vikum sem liðu frá stjórnarslitum og þar til framboðsfrestur rann út, þurftu EIK(m-l) heilar þrjár til að taka ákvörðun um að best væri að skila auðu vegna tímaskorts.

Þetta sýnir kannske best að leiðréttingarumræðan sem ku hafa staðið yfir í samtökunum lengi vel á þessu ári hefur ekki náð til stjórnmálalags velvakanda samtakanna og allra síst til hæfni þeirra til að taka skjótar og grundaðar ákvarðanir.

Þessi neitun samtakanna á að bjóða fram í komandi kosningum á eftir að gera þeim erfitt fyrir um að boða til víðtækrar samfylkingar í þeim höfuðmálum sem ég nefndi hér á undan. Áróðursmenn þeirra þurfa að eyða dýrmætum tíma sínum í að útskýra að besta leiðin til baráttu sé að skila auðu í kosningunum, í stað þess að leggja áherslu á nauðsyn samfylkingarbaráttunnar og þeir standa frammi fyrir því risavaxna verkefni að útskýra fyrir alþýðunni hvernig EIK(m-l) sé fært um að leiða samfylkingarbaráttuna en ekki fært um að bjóða fram í kosningum "svo vel fari".

En þótt sjálfskaparvítin vaxi í augum verður ekki undan því komist að eina leiðin til að verkalýðurinn hér á landi geti haldið vígstöðu sinni er að hann samfylki um baráttu gegn niðurskurðinum, gegn kaupmáttarrýrnuninni og öllum breytingum á vinnulöggjöfinni og að öll framsækin öfl í landinu hafi frumkvæði að og standi saman að þeirri samfylkingu.

-Ómar

# horn í síðu

Það hefur víst ekki farið fram hjá mörgum að hornið hefur ekki verið rekið í síðuna nú um alllangt skeið. Ég get ekki útskýrt það með öðrum en en þeirri lognmollu sem ríkt hefur bæði í EIK (ml) og á landinu öllu undanfarið sumar og vor.

En nú eru hins vegar miklar hræringar á báðum þessum vígstöðvum. Þá er tilefni að skjóta nokkrum vísum í nokkrar áttir.

Fyrst er hér ein gamaldags ferskeytla. Hún sannar hið fornkveðna um flísina í glyrnum náungans. Alþýðubandalaginu hefur orðið tíðrætt um íhaldsöflin í ýmsum stjórnmálaflokkum:

Á íhaldsvegu ýmiss ratar;
íhaldið á víða lið:
Íhaldsframsókn, íhaldskrata
og allaballaíhaldið.

Svo er hér ein limra, kannske ekki hárrétt stuðluð í endinn en limra samt um ein ónefnd stjórnmálasamtök:

Eitt sitt vildi Ísland
hrista
eldrauð samtök kommúnista.
En við stjórnarslitin
þau misstu litinn
og skiluðu auðum framboðslista.

Í eigu Verkalýðsblaðsins er forláta brjóstmynd af félaga Stalín sem íslenskur listamaður gerði fyrir mörgum áratugum. Fyrr í sumar komu aðstandendur Verkalýðsblaðsins að styttunni þar sem hún stóð á sínum stað uppi á hillu og undir hana var festur eftirfarandi bréfmiði:

Í tilefni 11. tbl.

Verkalýðsblaðið varla
hjarir,
vinna betur má.
Ofan af hillu Stalín
starir
stefnuleysið á.

Stuðningsmaður.

Þetta verður að duga að sinni. Hornið er enn til (sem betur fer) og er opið fyrir aðsendingum.

Hornklofi.

VERKALÝÐS BLAÐIÐ
1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskr.: - 1750
Til útlands : - 5500
Stuðningsáskr: - 5000
Áskrift greiðist á gíró 12200-9





(Mynd:Verkalýðsblaðið.)

# „Sameinum baráttu- og verkalýðssinna úr öllum flokkum og utan flokka . . . .“

## Ari T. Guðmundsson tekinn tali

Sunnudaginn 28. október sl. boðuðu EIKm-1, KFÍ/ML og Fylkingin til opinnar ráðstefnu í Þjóðleikhússkjallaranum til að ræða stjórnmálaástandið, kjaramálin og hugsanleg(t) framboð til vinstri við Alþýðubandalagið. Á fundinum kom fram, að Fylkingin er ákveðin í að bjóða fram, og KFÍ/ML hafði fullan hug á framboði. Vildu fulltrúar KFÍ/ML fá EIKm-1 til samstarfs um framboð. Á fundinum lagði Ari T. Guðmundsson, formaður EIKm-1 fram 4 punkta er hann taldi að leggja ætti til grundvallar í samfylkingu gegn kjaraskerðingum auðvaldsins. Dregnir saman í kjörorð eru punktarnir þessir:

1. Vinnum upp kaupránið – fullar verðbætur handa öllum!
2. Engar uppsagnir – næga atvinnu!
3. Berjumst gegn niðurskurði á félagsþjónustu!
4. Verjum verkfalls- og samningsréttinn – lýðræðislega samninga!

Að fundinum loknum hafði Verkalýðsblaðið tal af Ara, og bað hann að skýra í fáum orðum hvað hann teldi felast í þessum kjörorðum.

Ari:"Kjörorðin hafa mótast allt frá sumarbúðum Verkalýðsblaðsins í sumar. Þau eru sett fram núna vegna þess að við teljum þau draga saman brýnustu baráttumál vinnandi fólks.

I fyrsta lagi er rétt að taka undir kröfuna um að endurheimta kaupmátt launa skv. óskertum samningum 1977. Krafan er sett fram af ASÍ og Verkamannasambandinu og táknar 10-20% launahækkun. BSRB og BHM hafa ekki beinlínis sett fram sömu kröfu, en reiknað út 15-16% kaupmáttarrýrnun. Þessum ránsfeng ber auðstéttinni og ríkisvaldi hennar að skila. Komi fram kröfur einstakra félaga um hærri laun ber að styðja þær. Hitt er lágmarkskrafa.

Í öðru lagi verður allt vinnandi fólk að fá bættar krónurnar sem tapast vegna hækkanna á verðlagi og gjöldum. Þá skiftir ekki meginmáli hvort launin eru 250 þús. eða 400 þús. Þess vegna verður að krefjast verðbóta skv. verðbótavísitölunni eins og hún var áður en farið var að krukka í hana og samið var um 1977. Mér finnst rangt að vilja nota verðbótakerfi til launajöfnunnar. Sé það gert er verið að taka af fólki með léleg laun – því laun flestra "hálaunamanna" eru undir 400 þús. – og fá fólki með enn lélegri laun, í stað þess að hækka grunnlaun alls láglaunafólks.

Í þriðja lagi: Ríkisvaldið vill spara. Þá koma til lögmál auðvaldsins. Þau segja að niðurskurðurinn eigi að vera í "óarðbærari" greinum ríkisrekstursins – þ.e.a.s. félagsþjónustunni. Það eru til 100 milljónir í fiskiskipabrask en ekki til að greiða starfsfólki ríkisspítalanna laun. "Vinstri" stjórnin boðaði verulegan niðurskurð félagsþjónustu, en þó sérstaklega þannig að hætta við eða neita mikilvægum framkvæmdum. Íhaldið vill ganga enn lengra. Meðan launabaráttan er erfið hljóta félagsmálin að vera ári mikilvæg.

Í fjórða lagi: Ættum við að sitja aðgerðalaus ef fleiri fyrirtæki feta í fótspor Flugleiða sem segja upp tugum manna en fjárfesta í Hótel Esju eða Júmbóþotu Cargolux á sama tíma? Eða Eimskip sem segja upp öllum elstu starfsmönnunum?

Ef ríkisspítalar endurráða ekki í 200-300 stöður, þá vantar það fólk vinnu sem þar hættir og við vitum að eftirspurn eftir vinnu er mikil. Það sóttu nær 300 konur um 15 stöður hjá Félagsmálastofnun Reykjavíkurborgar!

Í fimmta lagi: Aðgerðaleysi BSRB og BHM í samningsmálum, óskir allra flokka og atvinnusamtaka um "heildarsamninga" og ekki síst aðfarirnar að FFSÍ og Grafíska sveinafélaginu sýna að atvinnurekendur og flestir verkalýðsforingjar vilja eyðileggja núverandi samnings- og verkfallsrétt. Sjálfstæði og frumkvæði stéttarfélaga eru nauðsyn, og óbrenglaður verkfallsréttur eina stöðuvörn verkalýðsins. Staða okkar má ekki versna!"

-Vbl: Hvernig á að framfylgja þessum kjörorðum?

Ari:"Það þarf að móta áþreifanlegar kröfur í hverju félagi og sambandi. Það gerir ekki EIK(m-l). Fólk verður líka að þreifa sig áfram með baráttuaðferðir.

EIKm-l vilja stuðla að slíku starfi og þar með að myndun samfylkingar til baráttu. Þetta meiga ekki verða ein samtök, heldur safn af baráttuliðum innan félaganna eða sambandanna, þvert á þau, og samsafn einstaklinga sem vilja vinna að einu málefni. Svona samfylking er ekki fyrir vinstri menn eingöngu, heldur baráttu- og verkalýðssinna, úr öllum flokkum eða utan flokka."

# Vandi borgaralegs flokks

Eitt helsta einkenni flokkanna sem leggja höfuðáherslu á baráttu á þingi ( og í bankastjórnum ) er óvirkni flokksmanna. Lýðræði miðast við þröngan hóp manna. Stefnumótun fer fram á þingflokknum og á ráðstefnum nefnda og ráða.

Alþýðubandalagið hafnar skipulagi og starfsaðferðum verkalýðsflokks. Það gerir það með því að gera engar kröfur til flokksmanna um starf og láta skeika að sköpum með sameiginlega fræðslu og stefnumótun þeirra. Kosningaundirbúningurinn á AB er gott dæmi um þetta.

Í Reykjavík eru rösklega 700 félagar skráðir á AB. Af þeim taka ef til vill um 100 menn einhvern þátt í flokksstarfinu. Hinir eru nöfn á blaði og víst að margir þeirra óska sér virkrar og aflmikillar baráttu fjöldans. Tæplega 300 félagar tóku þátt í fyrri hluta forvals AB í

framh. á bls. 6.

### Ráðstefna á vegum EIK(m-l), KFÍ/ML og Fylkingarinnar

# Framboðsmál á vinstra vængnum

Það vakti nokkura athygli er birtar voru auglýsingar um sameiginlegan fund EIK(m-l) KFÍ/ML og Fylkingarinnar þar sem m.a. átti að ræða komandi kosningar.

Aðdragandi þessa máls var málaleitan KFÍ til EIK og Fylkingarinnar um sameiginlegt framboð. Fylkingin ákvað þó að fara í eigið framboð (í Reykjavík) og EIK lagði til að haldin yrði ráðstefna þar sem kannað skyldi hvort grundvöllur væri fyrir slíku framboði og einnig rætt um framhaldandi baráttu í komandi kjarasamningum.

Ráðstefnan var síðan haldin sunnudaginn 28. október og sóttu hana vel á annað hundrað manns.

Strax að framsöguræðum loknum var ljóst að um sameiginlegt framboð gat ekki verið að ræða. Fylkingin byrjaði á því að telja til flest ágreiningsmál sín við "maóistana" og taldi að heildarstefna yrði að vera sameign aðstandenda framboðsins. Tíndu þeir til m.a. utanríkismál, lýðræði í sósíalismanum o.fl. Kom það beinlínis fram að Fylkingin telur sósíalismann vera brýnasta kosningamálið hjá verkalýðnum á Íslandi í dag. Fulltrúar Fylkingarinnar töldu að vegna málefnaágreinings væri samstaða þessara samtaka útilokuð – en þeir fögnuðu þó þeim "nýju straumum" sem kæmu frá maóistum, þ.e. að þeir skyldu yfirleitt fást til að tala við fylkinguna. Talsmenn KFÍ/ML lýstu því yfir að þeir ætluðu í framboð í sem flestum kjördæmum og báðu þeir síðan EIK og Fylkinguna um að styðja sig því "að okkar framboð er tæplega verra en framboð Alþýðubandalagsins". Þá kom fram að EIK (m-l) hefur tekið ákvörðun, eftir umræðu og atkvæðagreiðslu meðal félaganna, að fara ekki í framboð. Félagar EIK telja að áherslu una verði að leggja á komandi kjarabaráttu og að nýta skuli kosningarnar til þessarar baráttu.

Aðeins ein rödd kom fram frá aðila sem stendur fyrir utan þessi þrenn samtök. Það var Pétur Pétursson útvarpsþulur – hann hvatti til þess að framboðserfiði yrði látið eiga sig en þess í stað væri hafist handa um að efla verkalýðinn til dáða í þeim átökum sem framundan eru. Lagði hann mikla áherslu á að sótt yrði inn á vinnustaðina sjálfa- þar væri hægt að nálgast fólkið og tala milliliðalaust við það.

Pétur tók ennfremur Fylkinguna á beinið og benti á þá mótsögn sem fælist í yfirlýsingum þeirra um baráttu gegn stéttasamvinnu og athöfnum þeirra í baráttunni sem Andóf 79 háði gegn ríkisvaldinu s.l. sumar. Þá studdi Fylking stefnu fjármálaráðherra og undanslátt forystu BSRB.

MAT Á RÁÐSTEFNUNNI

Þeir einu sem beinlínis hvöttu til sameiginlegs framboðs á ráðstefnunni voru félagar KFÍ/ML . Gátu þeir þó ekki sýnt fram á að slíkt framboð yrði annað en endurtekning á þeim smáframboðum sem hafa komið fram undanfarnar tvennar alþingiskosningar. Ekkert heyrðist frá stuðningsfólki utan flokksins sem styrkti hróp hans á framboð – og ekkert fengu ráðstefnugestir að heyra um það hverjir stæðu að framboðum með flokknum – og síðast en ekki síst þá lagði flokkurinn ekki fram neinn grundvöll að samstarfi.

Fylkingin er svo einangruð að hún skynjar ekki hversu dauðadæmd þeirra stefna er – í þriðja sinn ætlar hún í framboð sem telja verður vafasamt að nái lengra en að hirða atkvæði tilskilinna stuðnings manna og frambjóðenda.

EIK(m-l) telja að tíminn fyrir kosningar sé of skammur til þess að viðunandi sé – auk þess hafa samtökin vanrækt undirbúninginn fyrr þótt mörg teikn hefðu verið á lofti sem bentu til stjórnarslita.

Þessi þrjú samtök geta því ekki – hvorki ein sér eða sameiginlega – boðið alþýðunni valkost sem dugar. Kröftunum verður því að beina að samfylkingarbaráttu í þeim átökum sem verða um kaup og kjör á næstunni. Slík barátta er eina leiðin til þess að þátttaka í kosningum geti verið árangursrík, og vert er að minna á það að það koma kosningar eftir þessar

-Há